Páll Vídalín kvað um Tímarímu:

Jón kvað með sínum séni
til sölunnar kölum í Dölum
Sína – framtalda – rímu
tjáði og skráði með háði.
Oddi galt illan heidda
að margráðið það kvaði;
betra er lítið letra,
en gjöra skrötur um fjöðir.

Nockur

# Gaman-Kvædi,

ortt af

## Ymsum Skáldum

á 18du Öld.

---

Utgéfin af

P. Sveinssyni.




---


Kaupmannahöfn 1832.

Prentud hjá S. L. Möller.

# Tíma-Ríma,

orkt af

Sýslumannni Jóni Sigurdarsyni.

í Dalasýslu hérum Anno 1711 add. hr. Ab1.

1. Opt eru kvæda efnin rýr
ecki á stundum parid,
eg á skrítid æfintýr,
í þó lítid varid.
2. Margt er sér til gamans gért,
gédi þúngu ad kasta,
þad er ecki einkis verdt,
ad eyda tíd án lasta.
3. En vér gétum ecki þad,
Adams tetur rædur,
lasta fletur landi ad,
lostann meta brædur.
4. Æ ad varast hrekkja hel,
þó hygunum vid sé undid,
má og madur vera vel,
verdi' ei ad honum fundid.

5. Fyrst er ástin ordin kold,
elsku mínka glódir,
lifdi enginn lífs á kvold,
sem lofudu allar þjódir.
6. Þó er ad breyta best sem kann,
og bidja Gud sig náda,
typta þræl en tignarmann
talinu láta ráda.
7. Veri madr létta lund,
línast rauna tetur,
egi hann bágt um eina stund,
adra gengur betur.
8. Sumir hljéta sæmd og vin,
sorg í annann tíma,
eptir bjarta blídu skin,
brunar dockva gríma.
9. Hverfullt luckuhjólid er,
hamíngju einni þó nædi,
ávalt fyrir augum mér
einsog léki' á þrædi.
10. Kalla' eg hræri kroppinn ond,
kortur máti' er settur,
einsog skérbord reist á rond,
rambar þartil dettur.
11. Sól og máni sýnir old,
fama vitnar manna géd,
allir dagar ega kvold,
inn til þessa svo hefir skéd.
12. Held eg lidid heims á dag,
Herrann þó þad viti,

old
Því
-ar vin
hin
á lítil
og þad
-a

sígur undir sólarlag,
sýnist bregda liti.

13. Þeir sem vilja vakna í saung,
og vondar kvalir flúa,
undir nótt, þó ei sé laung,
ega sig ad búa.

14. Tegir ei daudinn tíma vorn,
þá tíd er burt ad halda,
þad eru á oss álög forn,
allir skuld þá gjalda.

15. Sækir daudinn sjálfbyrgíng,
svosem hinn þó sniki,
voldugum ecki' enn vesæling
er vísara himnaríki.

16. Lærdómsment og listasíd,
linar daudans bylgja,
andinn skiljast allir vid,
ord og gjördir fylgja.

17. Því egum vér fyrir sáln' ad sjá,
sá er hluturinn meiri,
þá er holdid heimi frá,
hulid mold og leiri.

18. Hvornig sem ad hvorr einn lét,
herra ríkur, snaudur,
þegar hann leggst í þetta flet,
þá er hann sagdur daudur.

19. Hvor einn sína byrdi ber,
bjargar enginn vinurinn,
þá er eptir þýngst hvad er,
þad er ad standa reikníngin.

20. Þó að sæki sorg og kíf,
sú er bótin gæða,
kémur á eptir eylíft líf,
endaſt ſérhvor mæða.
21. Eptir ótta' og eymdar hag
egum Guð að príſa,
géfi oss Drottinn góðann dag,
til glediunar upp að ríſa.
22. Mér er ecki' í mannſaung lyſt,
mjøðnum Kvaſirs leyni,
af Eylandi einn fyrſt,
upphafliga greini.

---

23. Svo óðulið segir frá,
søgðu Odins-ſtrindi,
landið hulið hvítum snjá,
heitir Oſamlyndi.
24. Þar er ſterk og ſtórlynd þjóð,
ſtundum kémur að gjaldi,
umflotið með Ymirs-blóð,
undir norður-faldi.
25. Øflugur ríkti' á Odins-kvon,
ørðugur greiſa jafni,
Ránglátur hét Reigings ſon,
renta fylgði nafni.

26. Linna-bólid linadi sorg,
lostinn kosti rýrdi,
heitir á Hjóli hofudborg,
henni greifinn stýrdi.
27. Gódur egi verju-ver,
vidur sorgum þjáda,
módur eina átti sér,
ollu gjørdi hún ráda.
28. Gømul hóra greifann bar,
gat þó høfnum tapi,
ellióra Ofund var,
ill og forn í skapi.
29. Konu hafdi hann keypta sér,
sem kunni' ad audnum þjóna,
sat í festum geiragrér,
og gømul kvennpersóna.
30. Honum var ecki hrundin leid,
hans því rádid bætti,
í út-tektir allar reid,
og arfa-skipta gætti.
31. Greifa þókti hún sóma sér,
og sínum hæfa dygdum,
hét Agirnd, en ættin er
øll á nedri bygdum.

32. Hann fékk sveina handa sér,
hún nam píkur velja,
þann gjørvallann herjans her,
helzt er lángt að telja.

33. Undirførull á við hann
alla rægdi seka,
hennar þerna honum ann,
hún hét Slettireka.

34. Ráðskonan þar lagði lið,
lifði' á annara sveita,
átti skamtinn allann við,
Obleşsan nam heita.

35. Øll voru hjú á Hjóli svelt,
þó herrafólkið dafni;
Rángláturr þann ráðsmann hélt,
Rógur var að nafni.

36. Þørf er ei að þrælalið,
það sé grant upptalið,
óteljandi illþýðið,
er þar samanvalið.

37. Gamlir og úngir girnast bjørg,
góðir og vondir þiggja;
eru kotin ærið mørg,
sem undir Hjólið liggja.

38. Sapastadir gardi næst,
gengu þángad sveinar:
Pambarvellir þorp ólæst,
þar voru pútur einar.
39. Er hid þridja afbragðs-kot,
út frá stadarins trødum,
haldid sjaldan herra slot,
heitir á Prælastødum.
40. Fjórda hreidur fast vid Hjól,
fénu segja þeir velgi,
þad er kallad Pjófaból,
þad er í ørskotshelgi.
41. Sinni frú þad greifinn gaf,
en gardinn byggdi Fóli,
átti rentu alla af
Agirnd Pjófabóli.
42. Enn hjáleiga ein var sú,
af henni minnst eg hæli,
ysrid gott var undir bú,
og hét Lygabæli.
43. A koti þessu kvød var þad,
kann eg ei landskuld greina,
ad gjøra allt sem Ofund bad,
en engu hana leyna.

44. Stóð í þessum kotakrans,
kríngló̈tt greifa-høllin,
aðrar bygðir ótal lands,
eins við sjó og fjøllin.
45. Ecki luckan uppá mold,
øllum bindur trygðir;
þar sem ríkur ræður fold,
ráfar snauður um bygðir.
46. Örbirgðin var ærið stór,
í øreiganna safni,
karl gamall og kerlíng fór,
Kjærleikur að nafni.
47. Flóckuðu þau um breiða bygð,
þó bágliga hýsíng fengi,
karlinum fylgði kérlíng Trygð,
kleprótt frá' eg þeim gengi.
48. Hann var sveinn en hún var mey,
hvørt nam øðru trúa,
síðblendi þau áttu ei,
únga lands við búa.
49. Bjørguðu sér með beiskri sút,
berum fótum gengu,
fóru daginn allann út,
inni valla fengu.

50. Það var eitt um þessi hræ,
þarsem gisting hlutu,
enginn lofaði' inní bæ,
í útihús þeim skutu.

51. Þeim fyrr var borin fögur krás
í flestum géstaboðum,
héldu nú á húsgángs rás,
og höfðu ei nóg af roðum.

52. Fátækir þau fæddu' á laun,
þó fylgdi' ei skyldu þíngja,
en urðu' að forðast, er það raun,
alla lands-höfðíngja.

53. Það var eitt, sem olli því,
eyddist kostur góður,
þau voru mestu ógunst í,
hjá Öfund greifa móður.

54. Frá úngdómi er það sagt,
ei hann fyrir þeim bætti,
hafði hann þann veg lag sitt lagt,
sem lék að hennar drætti.

55. Öfund þumla opt í fór,
er hennar blástur kaldur,
þessi ógunst stríð og stór,
staðið hafði' um aldur.

56. Í öndverdu ei fékk náð,
þeim auka mikinn kvíða,
en nu fékk hún yfirráð,
á sem tók að líða.
57. Þau voru komin armóð í,
með eymd og veslíngshætti,
en hún voldug varð af því,
vinaslodin bætti.
58. Þetta heim að Hjóli bar,
herjans kota mengi,
sögðu karl og kérlíng þar,
kraunk um bygdir gengi.
59. Horfir nískur sis í flest,
fyrir því hyggst að ríkja;
óttadist það Agirnd mest,
ef þau kæmi' að sníkja.
60. Vill svo haga veiga=ná,
að verdi' ei að þeim bagi,
og nú segir Öfund frá,
eptir gömlu lagi.
61. Öfund gefur svoddan svör,
svo má ecki standa,
bölvuð kérlíng beit á vör,
og blés af þúngum anda.

62. Það er móti minni vild,
ad megi þau lífi forda,
greifann hittir tøfrum tryld,
og tekur svo til orda:
63. Nú er á stórum naudum von,
nístir það mitt lyndi;
hefir þú ecki, hjarta=son!
heyrt þau ótídindi?
64. Verast hlutir ecki ad,
alla tíma gódir.
Hann nam svara: hvad er það,
sem hrellir ydur? módir!
65. Ansa nádi illa bygd,
alla hrygd mér veitir,
karlinn sá og kérlíng Trygd,
Kjærleiki sem heitir.
66. Illa búin elli=mett,
auka lengi baga,
feta lüin full med prett,
frá oss meingid draga.
67. Ad hljóti skada sky dugt er,
skjøldur enginn hlífi',
þau hafa ætíd amad þér,
allt frá módurlífi.

68. Allra mest þeim ángur fékk,
ad upp þig fæda kynni,
vardi' eg þig sem votann seck,
med vitsku' og kvennprýdinni.
69. Þó þeim ecki væri' í vil,
þér veittist úngum nádin,
hefir svo audnan hagad til,
þú hlýtur yfirrádin.
70. Þetta gaman þeim er ei frá,
þótt ad møgur sníki,
halda sama hætti á,
helzt í þínu ríki.
71. Eru þau af fréttum fród,
falsid saman spinna,
einfalda og auma þjód,
alla frá þér ginna.
72. Grádugur ansar gribbu son,
geisar offsinn forni:
Þér egid, módir! þessa von,
þau skulu dæmd ad morgni.
73. Má þau fánga utan ef,
ydar þræla lýdur;
nú skulu gánga bod og bréf,
um bygd á allar sídur.

74. Verdur mér ad vinum stod,
vel þó ecki breyti,
mun eg gjøra mætu bod,
mínu rádaneyti.

75. Mér um of er ecki þad,
út þau grey ad slæma,
þegar komum allir ad,
eitthvad munum dæma.

76. Glotti Ø f u n d gløð í von,
gjørn á allt hid versta:
ó, minn kjæri elsku son!
ecki má því fresta.

77. Þad er frá ad finni vørn,
fyrir sárum pínum;
eg er brádlát einsog børn,
í aldurdómi mínum.

78. Greidt nam svara greisi þá,
gédinu vill ei breyta,
látum fara þræla þá,
þeirra strax ad leita.

79. Nú var kérlíng ordin ær,
og ólm í sinni gáfu,
hýdir, lemur, hrekur, slær,
en ;recfja greyin sváfu.

80. Præla hrinda blundi bad,
brjál er ad sitjid fyrir,
hreckjum vafdir haldid af stad,
hyrdis rismál fyrir!

81. Ansa þrælar allir þá,
ecki hýru gódir:
hvørt á ad fara? hvørn á ad slá?
hvad á ad gjøra? módir!

82. Þid skulud arka uppí bygd,
eyda og sneyda gledihag,
Kjærleika og kérlíng Trygd
koma med á þíng í dag.

83. Launin þiggid þid af mér,
þá med gódum ardi.
Þessu játa þrælarnir,
þarmed hlaupa' úr gardi.

84. Þar voru í þeim flocki,
Þjófgéfinn, Stíginn,
Illhrysíngur, Oþocki,
Andvígur og Lýginn.

85. Þeir framkomu þar um síd,
þýdum leidir grønnum,
sem jørdin heitir Hamíngjuhlíd,
hýst af landnáms mønnum.

86. Á því heimili þjóð var svinn,
þrælar leita af sér grun,
hét Ráðvandur húsbóndinn,
hans var kona Meðaumkun.
87. Ecki skipta orði um það,
inní húsið gánga,
hváðust leita Kjærleik að,
komnir Trygð að fánga.
88. Hreckja þýin háð og spott,
høfðu á sínum vørum,
með lastmælum þeir luku upp hvopt,
Lýginn var fyrir svørum.
89. Þegar bar að þessum garð,
þrælalið með æði,
feigum ecki forðað varð,
fyrir voru þau bæði.
90. Í søgðu bili svo til bar
sinni lund að þjóna,
svæfð af elli sátu þar,
í sæng á milli hjóna.
91. Hvør til annars hlæa fer,
en hjónin bæði þegja;
hér nú vel til veiði ber,
vondir þrælar segja.

92. Oss eru' undir augu leidd,
ill med fylli klækja,
verda nád og værdum sneydd,
vid eigum þau ad sækja.

93. Hjónin segja: hér høfum vid,
hýst í ockar ranni,
med þau ecki egid þid,
eptir réttum sanni.

94. Heiptin þræla hart á reid,
helzt úr øllum máta,
svorudu bædi á sømu leid,
søgdust naudug láta.

95. Argir þrælar ansa þá:
íllt er heimskum forda;
yckur lid ei leggja má,
Lýginn tók til orda.

96. Erindi hendi af þau rek,
ítar heyri fródir,
sem Rángtátur og rádafrek
ræsis baud oss módir.

97. Þid ef hýsid þessi hjón,
þeim edur veitid fædi,
lístøpun og limatjón,
leggst á yckur bædi.

98. Yfir hjónin ótta sló,
illir hóta fári,
Kjærleik út á eyrum dró,
einnig Trygð á hári.
99. Aumíngjanna ørfast tár,
argir kaudar þvínga,
uppá horadann húdarklár,
hnepptu vesælínga.
100. Öll var medferd ill á þeim,
enginn præla miskunar.
Søgunni víkur ad Hjóli heim,
hamóra til kérlíngar.
101. Preyttist ecki baugabil,
þó bæri áraþúnga,
gengur enn nú greifans til,
gefur ordid túnga.
102. Ef þú, sonur! kerlíng kvad,
Kjærleika villt týna,
er þér best ad arka af stad,
og efna heitíng þína.
103. Lengi eg mun ecki ad,
uppá þíngid rída,
hvad skal mér ad hasta' um þad,
og hljóta þar ad bída?

104. Ecki kvída þarftu því,
þræla' eg ádur kénda,
þeir eru fljótir ferdum í,
fyrr hef eg þá senda.

105. Hann kvadst trúa þessu þá,
þad mundi' ecki fjærri,
segir búa sig því má,
sérhvör stærri' og smærri.

106. Vóx þar ædi hark og hljód,
hlátur úr máta greida,
til handa' og fóta hleypur þjód,
á Hjóli stadinn eyda.

107. Þar var gledi, dryckja og dans,
daudanum engir kvída,
þegar sá allur fjanda fans
fór til þíngs ad rída.

108. Ofund fylgdi þegnum þar,
þó ei tauma spenni,
í einum vagni ekid var,
Agirnd sat hjá henni.

109. Hvör einn rídur hart sem má,
hofdu ærid gaman,
þessi lýdur þíngid á
þusti allur saman.

110. Dreif að fólkið margt sem mý,
munu þeir løgin þreyta,
þíngstaður á breiðum bý,
Blóðvøllur nam heita.

111. Þíng var sett á háum hól,
hafnað þrældóms ydjum,
Agirnd sat á einum stól,
innaní hríngnum miðjum.

112. Ránglát heilsa ríkismenn,
réðu' á kné að falla,
Öfund lúta allir senn,
og eru með bera skalla.

113. Upp sér hofsar Öfund við,
orðum hagar sínum:
hljóta skuluð heiður þið
sem hlýðið syni mínum.

114. Því vil ég gleðja þetta fólk,
þrislig mælti kélla,
bølvaðri sinni brjóstamjólk
bikarinn á nam hella.

115. Með álogum það gribba gaf,
og géðsformála sínum;
nú skulu drecka allir af,
eptir vilja mínum.

116. Þetta øl um þíngid géck,
þó ei stýrdi luckú,
flestir af því fengu smeck,
en furdu misjafnt druckú.
117. Slepptu dygd og drengskap þá,
dád og trygdum vina,
øllum vid þad eitur brá,
sem eldinn kéndi sína.
118. Ágirnd hljóp um allann hríng,
eins og vildi kanna,
hún var ad fá sér fallig þíng,
og fala gripi manna.
119. Brøgnum þackar bauga ey,
borgun vildi þrjóta,
en ef segja sveinar nei,
svívirdíngu hljóta.
120. Í því hópinn seggja sjá,
senda Øfund kéndi,
þegar vega þíngid á,
þrjótum ljótum vendi.
121. Þrælar mæla' og herda' á hljód,
híngad á þíngid færum,
afgømul og ellimód,
innaní saudargjærum.

122. Haudurin locka hvít sem trafs,
halda fáum tønnum,
er høfdu þocka ádur af,
øllum bestu mønnum.
123. Ásýndin var ordin rír,
ad øllu breytt nema hvarmastein,
augun hans þau eru skír,
en í henni føgur og hrein.
124. Ofund stundi og vard blá,
ógnarlig hjá mønnum,
þegar bundin bædi sá,
bølvud nísti tønnum.
125. Ecki vard á gódu uppgrip,
gjørdist fátt ad skjóli,
þá Rángl á tur med svartann svip,
sat á dómarastóli.
126. Fylgdi Rángl át sídur sá,
hann sinnti' ei mála verju,
lagdi nídíngs úrskurd á,
æ med nýi hverju.
127. En ef leid hjá illum vom
argur þessi galdur,
var hann í því eptirkom,
í óluckn tvøfaldur.

128. Margur af því meidsli hlaut,
og mætti illu grandi,
nú var á honum þessi þraut,
því var hann óstillandi.

129. Nú voru dómsmenn nefndir þar,
sem naudsyn þókti stærsta,
Offstopi þar efstur var,
og Illgjarn honum hid næsta.

130. Flárádur og Framgjarn þá
sínum sess hvør nádi,
sávís Ottar útífrá,
allir ad sama rádi.

131. Aungvann vondsku af þeim þraut,
Illgjarn vest tillagdi,
hvør í annars eyra laut,
en Ottar sat og þagdi.

132. Ránglåts af því reidi vex,
reckar vid ei standa,
allir þessir illir sex,
ómagadóminn vanda.

133. A Protókollinn prenta þar,
med prettum gégnum drógu,
hørd og rotin honum í var
húd af skolla tóu.

134. Blek af krumma blóði því,
sem best er sagt að hríni,
falskir penna fengu í,
fjøður af Kélðusvíni.
135. Að ætt þá spurðu allt um kríng,
ennþá flestir fóru,
fundu engann fjórmenníng,
því fjærskildari vóru.
136. Þóktu ofgømul þægilig,
þeirra' að trúa søgum,
fengu ei til sveitar sig
svarið að réttum løgum.
137. Því varð stans á þeirra hvopt,
um þetta efni' að géra,
að þeim þókti ecki gott,
til undanfæris vera.
138. Þeirra' ámilli þræta ill,
þessu af nam rísa,
þau af engum enginn vill,
í Guðs-nafni hýsa.
139. Ofund segir aðferð sú,
eigi megi hlýða,
dugir ecki' að doska nú,
á daginn tekur að líða.

140. Sannliga nú sýnist mér,
þid sækid rád hjá konum,
fyrst þad enginn yckar sér,
af øllum vitríngunúm.

141. Eg ad vísu veit þann sid,
verstann hér í landi,
ef þau hýsid erud þid,
allir á sama bandi.

142. Adur fyrr eg af þeim hlaut
illann kvilla' og baga,
eg hefi búid ad þeirri þraut,
þadanaf mína daga.

143. Því er mitt rád og þess eg gét,
þá er á enda vandi,
ad þau rati hrygdar hret,
heljar til farandi.

144. Svo þau eigi í sem lengst,
eins á nótt og degi,
og þeim verdi' um andlát þrengst,
ádurenn drepast megi.

145. Eg hefi andstygd á ad sjá,
illar herjans skrædur,
sómir ei þeim sitja hjá,
segid upp dóminn, brædur!

146. Gledi ordum Agyrnd á,
upp nam greifinn kasta,
láttu oss heyra, hríngana!
hvad segir þú? kjærasta!
147. Ecki' er heidur ad hyski því,
hér um sveitir skrídur,
því er mér leidur þánka í,
þurfamanna lýdur.
148. Félaus grej og fædusnaud,
fátæktar þó kénni,
vinna ei þó veitt sé braud,
verst eru gamalmenni.
149. Mögnud Ðfund mælti þá,
mágkonu vid sína:
mér hefir leingi litizt á
list og kvenndygd þína.
150. Dregr audinn þú ad þér,
þótt æ viljir meira,
en eg má nokkurn ædri mér,
ecki sjá né heyra.
151. Ansar greifi: er mitt bod,
öllum fridi sleppa,
burt er fé og frænda stod,
frá er um skyldu hreppa.

152. Røggsamlig í rædum sín,
rembihnútinn bindur;
heyrid þid hvad hún módir mín
mælir, piltakindur!
153. Dómsmenn hjala, heyrdum vér,
hennar rádid fína,
þad vor skylda allra er,
yckur hlýðni sýna.
154. Þarmed høfdu' á dómi drøg,
dauf var svoddan þula,
cítérudu Syrpuløg,
sídasta kapítula.
155. Lands svo hagar lagi þar,
hjá lýdum þeirra sveita,
undir hædum vatn þad var,
Widbjód létu heita.
156. Fisk er ecki' ad fá úr því,
af frosti leggur valla,
einn er hólmi hyl þeim í,
Hardángur þeir kalla.
157. Þeir segja, sem þad hafa séd,
og þar ad gjørt ad hyggja,
hann sé vaxinn hrísi med,
sem hardt er á ad liggja,

158. Ver hann hvørki hæd né hól,
hulinn steinum lióttum,
ecki færst þar annad skjól,
enn undir vidarrótum.
159. Þar skal vera þeirra bygd,
þó ad kénni nauda,
Kjærleiki og kérlíng Trygd
kveljist þar til dauda.
160. Nú ei skilid eptir er,
þad afla kunni mædu,
þau skulu fara þángad ber,
þad fyrir utan fædu.
161. Bídi þau þar skin og skúr,
skadinn daudann léni,
þeim ef komast krøggum úr,
kæfa skal í feni.
162. Arftækur skal enginn sá,
eptir þeim sem heitir,
og rækur øllum rétti frá,
raunar vel hvad breytir.
163. Ef þeim nockur leggur lid,
og linar þessu grandi,
hann skal missa fé og frid,
og fjørid óbætandi.

164. Hvør að sök er sannur sá,
þeim sinnir lífs um stundir,
fast og laust það sé hann á,
falli Ránglát undir.
165. Þeim má góðu orði að,
enginn héðanaf venda,
þau skulu deya í þessum stað;
þar er dómur á enda.
166. Bygðu dóminn lýðir lands,
er lesti flesta kanna,
á óløgum Andskotans,
og àllra verstu manna.
167. Offstopi með enga ró,
upp réð dóminn lesa þá;
Fláráður um falsið bjó,
Fávís hló og sagði: já!
168. Ottar þagði, eckért kvak
úr hans heyrðist gómi,
þá lýðir høfðu lófatak,
að lesnum þessum dómi.
169. Enn Ránglátur ansar til:
Ottar! þú þinn gickur!
ertú ecki oss í vil,
að øllu hér samþyckur.

170. Stóð hann uppá beinin blaut,
bjúgur mjøg að líta,
augunum hann Ottar gaut,
svo útá varð hið hvíta.

171. Oskinsemin ollir mér,
allann brestur frama,
hvað sem, Herra! þóknast þér,
þá lízt mér hið sama.

172. Yður styggja í engu vil,
annars hel mun kanna,
eg vil segja: Amen! til
allra gjørnínganna.

173. Ofund vitni um það ber,
að henni þókti' ei vanta par;
prísvar lét hún þylja sér
þenna dóm til skémtunar.

174. Kérlíngar var kjaptur flár,
keirður upp með skøllum,
hafði' hún ecki' í hundrað ár,
hleigið með honum øllum.

175. Hennar af því gladdist géð,
greiðast þókti vandi,
kímin þackar køppum, með
kossi' og handabandi.

176. Sé eg það, kvað sirpan verst,
svoddan vel má hrósa,
nú er girðt fyrir nesin flest,
nær sem vildi' eg kjósa.

177. Að þau kanni kulda' og hel,
og komi' aldrei í vora sveit,
þetta er rétt og það fer vel,
þau hafa leingi verið heit.

178. Bragnar hættu þíngi því,
úr þessu er búið að ráða,
færðu síðan fjøtur í
fátæklínga báða.

179. Kváðust búnir þegnar þá,
þegar í bragði skømmu,
varð það allt í einu, já,
allir hlýddu Mømmu.

180. Nú fær aumur á þeim séð
enginn, ráð svo batni,
Kjærleik drógu og kérlíng með,
kviknakin að vatni.

181. Er af verkum auðsén trú,
eikina lausin prýða,
þegar allur þángað nú
þíngheimur nam ríða.

182. Ei er fár í naudum nýtt,
nú skal yfir taka,
þeim var bádum undan ýtt,
á áralausum flaka.

183. Yfir þau dreif øldublad,
útaf þó ei kafni,
húngrud ráfust hólma ad,
høfdu land fyrir stafni.

184. Þau munu pínast þar um stund,
þessu má vel trúa,
ádurenn komast á þá grund,
sem almenníngar búa.

185. Nú var á Ofund enginn stans,
øldrud beitti túngu,
hún var kát og kvad vid dans,
kaudar undir súngu,

186. Æ, hvad gladvær er mín lund,
upp minn geingur hagur,
eg hefi ratad óskastund,
er nú tíma=dagur.

187. Fyrst þeim greyum fengud mein,
fært med nógu grandi,
hédanaf ræd eg øllu ein
eins á sjó og landi.

188. Öl og kostur er hjá mér,
ekki veginn á reislu,
því vil eg bjóda höldum hér,
á Hjóli ad þiggja veizlu.
189. Grádugir þessu gleyptu vid,
gaur hvörr þakka nádi,
verdur-fegid vondsku-lid,
sem vargur fagnar brádi.
190. Vildu allir þrjótar þar
þessa veizlu kénna,
grípur hvör sinn gjardamar,
gángvorarnir renna.
191. Fór ad Hjóli hyrdin öll,
hér fyrir Öfund greiddi,
Rángládur í háa höll,
og hans módir þá leiddi.
192. Saman í hvörju sæti var,
sessunautur og maki,
allir dómsmenn efstir þar,
en Ottar á hurdarbaki.
193. Tölu gésta' ei telja má,
sem til sín Öfund kallar,
þó mun eg segja sannleik frá
sídunum innanhallar.

194. Þar skal súpa hornahver,
hvør sem niðurrennir,
Ragna= þartil =röckur er,
og rauðt fyrir augum brennur.
195. Sagt fyrir skálum skømm og spott,
skapraun, lýgi mesta,
uppí eyrun æriδ gott,
enn afheyrandi hið vesta.
196. Verður søkótt, auð og ønd,
og æruna sumir missa,
brenna' ef klappa berri hønd,
bítast þegar þeir kyssa.
197. Ecki grætur úthellt blóð,
annars bræðra tveggja,
undir borðum illsku þjóð,
ýmsa í gégnum leggja.
198. Í flestu illu fara' á kaf,
fals og pretti næra,
strokin manndygð aptur af,
einsog røkuð gjæra.
199. Þeirri veizlu' og þessum hag,
þó að vínið orni,
síðasta vetrar segja' upp dag,
þá sumarið kémur að morgni.

200. Þó þeir skeinki skálaflóð,
skarð í gjæfu segi,
látum drekka þessa þjóð,
þá øfundum eigi.

201. Það bar til um þessa tíð,
það er að segja líka:
komu børn í Hamíngju hlíð,
horskur sveinn og píka.

202. Ráðvandur sem ríkti þar,
rekkar drógu af því grun,
frómur þeirra faðir var,
fæddi bæði Meðaumkvun.

203. Þeirra af því glaðdist geð,
geingu yndisvegi,
børnin litlu lísi með,
loks en ønduð eigi.

204. Fengu af því hjónin hrós,
høfnuðu øllum þjósti,
nærðu børn sem lítið ljós,
þau lágu á móður=brjósti.

205. Vex upp sveinn og væna mey,
vantaði skírnarprýði,
vildi nafn þeim veita ei,
vígður hempusíði.

206. Af søgunni ecki séd eg fæ,
um sídir hvørr þad gérdi,
má og ské ad óskírd æ,
alla daga verdi.
207. Ottinn þreingir ærid stór,
øll er villt af hrædslu bygd,
kølludu hjón, en kyrt þad fór,
Kjærleik svein og meyuna Trygd.
208. Sá hét Tími sem mér gaf,
søgu þessa og fleira,
henni' er rotid aptanaf,
ecki las eg meira.
209. Enda ljódin þar mig þraut,
þessum ód ei breyti,
taki' hún nafn af tédum naut,
og Tíma=ríma heiti.
210. Ecki' er rétti øllum hjá,
upphaldid á gilda vog,
gjørla mega garpar sjá,
gánga løg sem hafa tog.
211. Lof sé gudi' er løg oss gaf,
lýdur ef þeirra gætir,
mikid heldur miskun af,
Magnús Lagabætir.

212. Ótal skamma í sér ber,
øfundin med døckva brún,
módir vamma allra er,
Andskotanum steypti hún.

213. Henni fylgja: svik og synd,
sverdid, reidi, ørvænting,
ágyrnd, hatur, óréttind,
og allrahanda svívirding.

214. Gud oss kénni gódann sid,
gési ad fordast þetta,
haldi mønnum heidur vid,
hærri' og lægri stéttar.

215. Ofugur smidur arkar sá,
sem ýtti dverga-lidi,
bindur skindi-enda á,
allir lisi í fridi!

# Skipa = Fregn,

orkt af

Árna Bødvarssyni.×

1.

Vorid lángt
verdur opt. dónunum,
heldur strángt,
hardnar i sveitunum,
siglíngunni seinkar mjøg,
sígur ad byrgdum,
gledskapur um lád og løg,
liggur í kyrdum;
brennuvín
burt er af gløsum,
eykur pín,
eckért í nøsum,
tóbaks-skrín
tóm eru' í vøsum;
saman koma þeir hér og þar,
kallast á og kvedjast svo:
kom þú blessadur! :,:

× í handriti Stiptisbókasafnsins stendur: „ortt af Theol. Studioso Monsr. G. S. S. á Helgafelli Anno 1735." = Sr. Gunnlaugur Snorrason. Hann og Árni Bödvarsson segir ×

× Archivar Jón Sigurdsson, ad hafi kvedid Skipafregn saman í skóla

2.

Ansar hinn:
á eg að heilsa þér;
góðurinn minn!
géfðu í nefið mér,
í hálfann mánuð hef eg ei séð
hót af tóbaki,
brúkað hefi' eg mosið með
migludu hraki.
A, er það?
ertu sí svona?
Hinn þá kvað:
hvørs viltu vona?
tóbaksblað
bauð mér ein kona,
en eg brúka' ei uppí mig;
:|: því er nú varið og það er nú svo,
þér satt eg greini. :|:

3.

Ekki hefði' eg
átt við að neita því,
bágt er még
blaðið fá munninn í;
mykjuskánir, mótorfið,

og margt annað fleira,
brúkað hefi' eg og blóðbergið;
bættu við meira;
Svei mér þá,
ef satt er ei þetta,
mæða' og þrá
mørg vill ádetta,
engir ná
til útlenzkra frétta,
hart er nú um seitilinn, hvað segir þú?
:,: það má kalla, Þórdur minn!
þegjum við núna. :,:

4.

Dýrt er nú,
Drottinn minn! brennuvín,
ætlar þú,
eg mætti leita þín,
ef mér lægi á einni skál?
ansar hinn: svei, svei,
þó það kosti þína sál,
og þig sjálfann, nei, nei;
hættum við,
hvað ríður þarna?
høfum bið,

hvør er sá arna?
líttu' á hlíð,
ljótt er að tarna,
sýnist mér hann svínkaður,
:|: við skulum spyrja hann spjörunum úr,
spjátrúnginn þennann. :|:

5.

Sælir nú!
sæll vertu, Bjarni minn!
hvað segir þú?
hvørt eru skip komin?
heyrt hefi' eg að Hólms skipið,
og Høfðarar líka,
lægt hafi segl við legumið,
með lestina ríka.
Skil eg það,
skal friður núna?
Mælt er, að
møgl sé um trúna,
segja þeir stað
sockinn Lundúna.
Hvaða látum, hvørt er það svo,
:|: allir hafa þeir útkomist
í haust? og jæa. :|:

6.

Lifnar hold,
lánliga margt tilber,
hýrnar mold,
hreikja sér dónarner;
skipakoman gledur géd,
gleyma þeir hrygdum,
hesta sækja' í hàglendid,
og heim reka' ad bygdum;
ætlid þér,
ad reisa? bródir!
í sinni' er mér
ad sjá Danskar þjódir;
klárarnir,
kvikir, ómódir
eru, en teljum ecki nú,
:,: vid skulum allir halda hóp,
hvad sem ádynur. :,:

7.

Allt er til
áleggja reidtýgin,
flest í vil
fer þá um búnínginn;
prjónlesid í poka' endann

packa þeir niður,
kémur ámóti kúthólan,
sem kannist þér viður;
sneipast inn,
snøggvast að eta,
stígreipin
stirðir ísета,
ecki' um sinn
uppstaulað géta,
hálfa eikt þeir hánga þar,
:|: bæar-vegg fyrir bakþúfu,
þeir brúka um síðir :|:

8.

Þá á leið,
þenja þeir klárana
hleypa' á skeið
um holtin og flóana,
mælir ei um ferða flas
fyrr enn þeir líta,
kaupstaðarfólk með verslu vas,
varníngi bíta;
af baki þá
brølta með æði,
hestar fá

hryglu af mæði;
kaupmenn sjá
kreika um svæði;
er hann það sjálfur, segðu mér?
:|: áttu við hann sem hérna er
með hattinn gráklæddur. :|:

9.

Sýnist mér
svipurinn þefsligur,
heilsum vér,
hann áður inngeingur,
bugta sig og beigja kvið,
með ber höfuð gánga,
strjúka niður stutt-varið
stríð í vánga;
herra minn!
hvör þeirra mælir
við kaupmanninn,
komið þér sælir!
ansar hinn,
og andlitið skjælir:
Gud velsigne' Jer, gode Ven!
:|: alt i Boden I skal faae
hvad Eder behager! :|:

10.

Svo med hrad
sækja þeir varnínginn,
grenslast ad,
hvørt gisinn sé kúturinn;
hérna er nú, herra minn!
hafurtask ockar,
lítid púlsband, lambskinnin,
og ljósgráir sockar.
Hvad er det,
I vil begjære?
Tóbakid,
til máské beri,
þér fáid med
fjórdúng af sméri,
ef þad er ei ordid kramt,
:|: af því eg reiddi þad undir mér,
innaní sýu. :|:

11.

Tóbakspund
taka þeir vegid út,
á samri stund,
setja á bordid kút,
bitanum einum bergja þeir á,

og brydja upp alin;
herra minn gódur! hana nú þá,
hálfann ríksdalinn,
bad eg um
brennuvín ydur,
af áttúngnum
allt hripar nidur,
í þrautunum
þad er plagsidur,
náúngann ad núa' í krít,
:|: kaupmanninum þacka þá
og þýdliga mæla: :|:

12.

Hvad eg er,
herra minn! skyldugur?
greinid mér,
gofugi kaupmadur!
Ser og en halv Fisk haver I her
hos mig tilgode;
skilníngurinn skorta fer,
þeir skrafa í hljódi:
hvad segir hann?
hálfa vætt fiska,
enginn kann

á þad ad gitska,
hvad brøgdóttann
brestur opt vitska;
ecki eru þeir utan tólf,
:|: þrenna socka þér skulud fá,
og þá stendur heima. :|:

13.

A vasaglas
vildi eg fá nú med,
kvikna mas,
kaupmadur ansa réd:
Du bør have en Brændevins Pot,
saa blive vi klare;
hinn þad meinar hád og spott,
og hikar í svari;
flátid
ad hønum réttir,
hýrnar vid
og hvarmana brettir,
hopar á snid
í hriggnum sig fettir,
flaskan medan fyllt er hans;
:|: kvedja sídan kaupmanninn
med kossi' og blídlátum. :|:

14.

Hrósa skal
herramanns gjøfunum,
hef eg tal
haft ei fyrr af hønum;
gudsmadurinn gaf mér þó
gildann vínpottinn,
hvar hann fer um saltann sjó
signi hann Drottinn!
stökkva Stedja' á bak,
strax burtu rída,
af keyrum blak
klárarnir lída,
heyrist brak
um heimsbygdir vída;
á hlídar ýmsar hallast þeir;
:|: vínid heldur verdur megnt
það vekur óróa. :|:

15.

Fljúgast á,
fángbrøgdin reyna þeir,
dreingir þá
drecka ei saman meir,
vitid fer á víd og dreif,

vart er þeim gaman,
glíman verdur skøck og skeif,
þeir skémmast í framan,
leingi dags
láta þad fara,
høggin strax
hvorugir spara,
vantar sax
til vonar og vara,
ef þeir hætta ecki fyrr;
:|: hvørskyns brøgd og hrecki med,
þeir hafa í frammi. :|:

16.

Sídan heim
svíndrucknir koma þá;
fagnar þeim
fólkid sem best þad má,
eru sídan afklæddir
og uppí rúm lagdir,
úr vatni og hlandi vaskadir,
og vitlausir sagdir;
tilfeinginn,
tíndur er, audur,
útleikinn

einn verr enn daudur,
en kúturinn
kominn er snaudur,
tómur ad mestu' og tappalaus;
:,: rakna' ad morgni rotinu úr
í rádleysi og svíma. :,:

17.

Dvínar prakt,
druckinn er náunginn,
rénar makt,
reisan er afstadin;
kæti' er burt, en komid í stans
kaupstadar vasid,
ydran dottin á til sans,
fyrir ólucku flasid.
Dónarnir
dvelja í nádum
ferdlúnir,
fákunum þjádum
hjúkrad er,
med hagnadi' og dádum;
fátt er betra enn fara vel;
vér høfum ei sídan heyrt um þad,
hvørnig þeim vegnar. :,:

18.

Braginn á
bindum vér endahnút,
styttist skrá,
staupid er sopid út,
enginn reingja meiníng mun
til málefnisbóta
madur, edur gjøra á grun
um grandsemi ljóta.
Valete!
virdid til góda
skáldmæle
skemtunar ljóda!
eckért spé
ætlum ad bjóda,
heldur gaman græskulaust;
:,: vid skulum skjala ad skuli mál
Skipa=fregn heita. :,:

# Hrakfalla-Bálkur,

orktur af

Presti Síra Bjarna Gísurarsyni,
á Mála í Skriddal.

---

1.

Hjøludu tveir í húsi fordum,
hlýdda' eg gjørla þeirra ordum,
gjørdi' eg ecki vid mig vart,
hinn þá sagdi madurinn minni
mikinn part af æfi sinni.
Í holtum nærri heyrist margt.

2.

Rammlig hafa raunakýnai
rekist yfir mig, í vokunníngi!
[illegible]vorestur og eymda án;
ef eg segi þér allt af létta,
eflaust mundir þú sanna þetta.
Sitt hefir hver ad líta lán.

3.

Géck mér fyrst ad giptast illa,
gjørdi margur fyrir mér spilla,

átti eg ecki' á vísum val,
bágliga þó mér bónord geingi,
bardist eg vid eina leingi.
Fár veit hvørju fagna skal.

4.

Um sídir einn med sinni túngu
svo gat mælt fyrir vísi úngu,
ad eg nádi baugabrík;
hønum saud eg gamlann greiddi
[illegible]duga snót í rúmid leiddi.
Ogl[illegible] er rømm og rík.

5.

Ærnar þjár og hross í haga,
hafdi eg til bús ad draga,
konan hafdi kú og á;
bollok stód á býli sínu,
bædi láum á skinni gráu.
Lagliga fara lítid má.

6.

Fann eg þegar framleid stundin,
forgód þóktist menjahrundin,
lagdi hún vid mig litla ást,
krotadi sig og kroppinn fylldi,

kastadi til mín því hún vildi.
Í føgru skinni sløgdin sjást.

7.

Engin sképna undi' ad vera,
allt eg mátti sjálfur géra,
fyrir mig var hid versta treint;
hún burtstrauk þá henni sýndist,
hlaut eg ad vakta þad sem týndist.
Eins er lidid laungum seint.

8.

Bad ea þá med blídum ordum,
baugalindi' í þagnar skordum,
ad muna þad sem mér hún hét;
svejadi' hún og svaradi illa,
sagdi' eg mætti kjaptinn stilla.
Þá fór verst er verra lét.

9.

Þegar eg sá ad svoddan kvendi
sinnti' ei gódu af minni hendi,
hjá mér gjørdist hjartad sýlt,
inn eg strauk í hálfu húmi,
hana flengdi í sínu rúmi.
Sízt er neinum ofgott illt.

10.

Viku sídar var eg í svefni,
vaknadi vid ad menjagéfni
héldt um sóbl og keitukér;
steypti hún yfir mig stækum hløndum,
stríkti fast med bádum høndum.
Jøfnudur gódur allur er.

11.

Barst þad út um bygdar sídur,
bætti' um lítid húsgángs lýdur,
svo komst allt fyrir Sýslumann;
vann þad hennar vondsku kýngi,
vórum vid bædi hýdd á þíngi.
Sækir hvørn þad sáir hann.

12.

Lítt hefir batnad lundar gædi,
lágum vid aldrei saman bædi,
opt hafa seggir bregdum bendst;
skrapi' eg einn í skála tóttu,
skélf eg þar á hvørri nóttu.
Argur laungum vosi venst.

13.

Barnkorn átti bauga-lína,
best eg vissi hegdan mína,

ágéck þá med ockur stirdt;
kéndi hún mér krackann lengi,
kallast má eg vid hønum géngi.
Opt má hid sanna kúra kyrt.

14.

Dugnadarlaus er drós ad vinna,
dubba eg stundum lindi tvinna,
ádur var eg ei á þad gjarn;
ullir nú hún tekur ad tæta,
tirjur mínar ad staga og bæta.
Aftar til skal berja barn.

15.

Vafagépillinn verdur ad manni,
veit eg þad med fullum sanni,
ef náir ad togna nockud mey,
tekur hún nú ad tóna ad rollum,
og tutla hár af þúfu kollum.
Bjúgur kálfur er betri' enn ei.

16.

Allt er fyrir mig kastad klúngri,
kann eg ei fyrir ánaud þúngri
mitt ad reikna raunafár,
því eg hefi' í 13 árin

þessi umbúid kaun og sárin.
Vágt er ad róa einni ár.

17.

Sárliga hefir saudi mína
svikull refurinn gjört ad pína,
þetta ad einu fleyrstallt fer;
tala' eg fátt um fellir kinda,
feikna hrídir og skada vinda.
Enginn tekur af sjálfum sér.

18.

Í fyrra sumar í fjørdinn mjóa
fór eg heiman og vildi róa,
hugdi víst ad hafa þar tøf;
ábatinn vard rýr í rugum,
róid vard ecki úr landablugum.
Svipul er einatt sjóargjøf.

19.

Færleikslán eg fékk med þrautum,
og fulla byrdi af þorski blautum,
þadan eg lagdi þegar í ár;
misti' eg allt fyrir bergid bláa,
bædi klárinn og fiska hráa.
Ecki' er ferdin øll til fjár.

20.

Kann eg ecki kindur ad sorga,
klárinn skal eg ad fullu borga,
aptur ad vori, ef eg gét;
þó eg eptir strípadur stœdi,
stunda' eg lítid þessi gjœdi.
Sá hefir nóg sér nœgja lét.

21.

Allmargt hefir yfir mig geingid,
opt hef eg med fisk og flengid,
lallad heim og lýsid kramt,
komist á flot í vötnum vída,
vedrin hitt og kulda strída.
Sá einn veit, er reynir ramt.

22.

Var eg eittsinn bagga úr fjördum,
brast á vedur úr Sandaskördum,
sýndur daudi' og sá eg þad;
fannst eg þá í flódi snjósa,
farid var skinn úr hvörjum lósa.
Hjálp er manni mönnum ad.

23.

Aptur þá í Areyar*) tindi,

*) Líkliga sama sem Arnarey, nálægt Papey.

yfir mig sló þeim mikla vindi,
kominn var eg í klettinn hátt;
þadan eg fauk, sem flýgi tundur,
fóru þá rifin þrjú ísundur.
Optast segir af einum fátt.

24.

Af danska skipinu datt eg illa,
druckinn mjøg og hugdi ad stilla,
dreingi tvo, sem deildu þar,
í høfudid sló mig heimskur klunni,
eg hraut fyrir bord og nidur ad grunni.
Til fagnadar ecki flásid var.

25.

Skaut mér upp hjá skipinu aptr,
skyn var burt og limanna kraptr,
lífs sá enginn merki á mér,
settu þeir í mig gaddinn gilda,
géck úr þjófinu máttar spilda.
Bodi-nærri einatt er.

26.

Atti eg í Skrúdnum*) einn ad síga,
ofaní bjarg og láta hníga

*) Skrúdur edur Skrúdsey, liggur fyrir framan Reidarfjall í Sudur-Múlasýslu.

fugla-sindur á frónið salt;
festin brast, eg fór sem kunni,
faðma 12 að sjáfar grunni.
Fyrra er lánið fjørvinu allt.

27.

Þá hef eg komið í kreppu vesta,
kviðurinn hafði tekið að bresta,
margir søgðu eg mundi ei nást,
drógu þeir mig úr drafnar-sundi,
dult var þeim eg lifna mundi.
Margur dó, sem bjørgin brást.

28.

Brotnað hef eg á báðum fótum.
í Búlands*) tindi furðu ljótum,
úngur var eg að aldri þá;
í Papeyu**) seinna hætt nam hrapa,
hefir eg reynda þrjá skiptapa.
Margt hefir drifið dagana á.

29.

Úti lá eg 11 sinnum,
er það fleirstum lengst í minnum,

*) Búlands tindur er í Suður-Múlasýslu.
**) Papey á Austfjørðum framundan Búlandsnesi.

gêck þá vedrid grimmt og strídt;
allt burtkól þá eyrad hægra,
afkomst eg med nafnid frægra.
Opt eru staddir lýdir lítt.

30.

Á eri féll eg ádur af baki,
ætíd var eg í þessu hraki,
fór úr lidi á fíngrum tveim;
undarliga eg augad misti,
út það dróst á hríslu-kvisti.
Annari býdur eymdin heim.

31.

Ýmsir hafa mig drengir dárad,
dregid ad spott og vísur párad,
haft í kýmni hrakföll mín;
þó mig strídi á þessi vandinn,
þeir hafa líka ratad í sandinn.
Sérhvør finnst í fletinu sín.

32.

Nýliga lukti' eg landskuld mína,
lét þá sækja vogina sína
húsbóndinn, og héldt á lopt;
nennti eg síst vid nøgl ad kanta,

19 merkur sagdi hann vanta.
Bregdst því manni ætlun opt.

33.

Ofaní kaupstad á eg ad skotta,
og útvega þar til tveggja potta
af víninu því, sem brennt er bezt;
ala svo lambid árs um hrínginn,
er eg þá laus vid smjör bitlínginn.
Vesælann dregur fisid flest.

34.

Fæ eg ei heima hreysid lengur,
hvørnig sem þad nú tilgengur,
ad fái eg hælid fyrir jól;
hamíngjan má nú hura'um þetta,
hefir hún margann stein og kletta.
Ecki er undir einum skjól.

35.

Bækladur er eg allur ordinn,
einn ei þyrfti ad halda í spordinn,
fyrir mér greida margir menn;
væri mér holl og hlýdug snótin,
hvørugann skyldi eg géfa upp fótinn.
Í kolunum lifir lengi enn.

36.

Ærnar tólf og ein er kýrin,
átta lømb, en reidardýrin,
hafa þau aldrei heppnast mér;
heylaust kot og bágt ad bjarga,
bónafjøldi og skuldir margar.
Lítid betra enn ekkért er.

37.

Þá hafa þeir af mér heimtad skattinn,
hef eg ordid verri' enn skrattinn,
stundum í hid illa skérst;
lógun mín er eptir efnum,
en álnir fáar á hreppa-stefnum.
Argur er sá sem engu verst.

38.

Eg skal bjóda beint til ødrum,
ad búa svoo med litlum fjødrum,
og reyna þad, sem eg hefi átt;
hata eg jafnan húsgángs-veginn,
hønum þó verdi margur feginn.
Skár er ad vera skorinn í smátt.

39.

Þó á mig falli eldur og héla,
aldrei skal eg frá neinum stela,

inni eg þetta ei með kals;
þó sé hún Hildur þúng í sinni
þá er hún fróm að ætlun minni.
Að vísu' er engum varnað alls.

40.

Væri sú ecki kona og krackinn,
kynni' eg að fá mér betri stackinn,
hagfeldt líf og hægri kjør;
þó eg hefði þartil vilja,
þá er eg deigur við að skilja.
Hann er sæll, sem hræddur er.

41.

Nú hef eg rauna rellu mína,
rakið, vinur! í kjöltu þína,
hér má skoða mitt hvørs dags brauð;
þú munt vel í høndum hafa,
og heillaráðin fyrir mér skrafa.
Maður er tíðum manni í nauð.

# Láka-Kvædi,

orkt af

Gudmundi Bergþórssyni.

sigla landi

Vidlag: Sá eg siglufáka, sveima höfnum frá;
Legillinn hans Láka lagdi framhjá.

hefil 1. Hér er sagan harma kauna,
hvad Þorláki bar til rauna,
vildi gullskord gódu launa,
eg greina skal þar frá.
Legillinn hans Láka-lagdi framhjá.

2. Itar gjörvi ei ad því sköllin,
aumki heldur þau tilföllin,
þó kúturinn hryti' á kémbíngs völlinn,
og kastadi skeidum frá.
L. h. L. l. fr. h.

3. Aumka þetta eyur spánga,
og uppí hærstu turna spránga,
lúdra og bumbur láta gánga,
lýdinn kalla á.
L. h. L. l. fr. h,

4. Bedid hefir hann bragna mengi,

bodin flýgi eigi leingi,
athuga þó erfidt gengi,
og til besta' ad sjá.
L. h. L. l. fr. h.

5. Kólgudýr úr kyrdum sveima,
kríngum alla nordurheima,
luckan studdi stjórnartauma,
strengir súngu þá.
L. h. L. l. fr. h.

6. Fregnin sú med flýtirs høndin,
flaug um gjørvøll nordrløndin,
eptirfylgdi stafa strøndin,
størdu margir á.
L. h. L. l. fr. h.

7. Þrjátíu skip med þundareldi,
þustu fram úr Danaveldi,
útbúin med føgrum feldi
og fridarmerkin blá.
L. h. L. l. fr. h.

8. Komu enn med kiærleiksbandi,
frá keisaranum í Þýdskalandi
13 tylftir samsiglandi
síldarvøllinn á.
L. h. L. l. fr. h.

9. Sáust enn á síldarleidum
sitja yfir þorska-veidum,
Hollendskir á 100 skeidum,
hønum vildu ná.
L. h. L. l. fr. h.
10. Sídan komu á síldardíki,
60 skip úr Fránkaríki,
laugud medur linna sýki,
ljómadi bordin á.
L. h. L. l. fr. h.
11. Frá Englandi kom enn ad nýu,
8 skip og duggur 10,
byriar kári straums um stíu,
stafna gjørdi slá.
L. h. L. l. fr. h.
12. Tuttugu skip frá Tyrkja leidum,
tølduft þar med flota breidum;
Indiskir á 18 skeidum,
einnin vóru hjá.
L. h. L. l. fr. h.
13. Brunudu strax á kólgu kvíum,
kurteislig med seglum nýum,
hundrud 5 og 6 af Svíum,
sigurinn vildu fá. L. h. L. l. fr. h.

14. Fornjóts arfinn bylgju brota,
brunuðu fram með hvítings sprota,
80 í einum flota
út af Spanía.
L. h. L. l. fr. h.
15. Herða tóku hrannar reykinn,
Hamborgararnir komu í leikinn,
sigldu þeir, því sæt var steikin,
70 skeiðum á.
L. h. L. l. fr. h.
16. Pakið var hafið út og austur,
eptir fylgdi hèrinn traustur,
frá Noreg komu 15 flaustur,
flæðar þíngið á.
L. h. L. l. fr. h.
17. Allir þessir undan fóru,
og eiðinn þann við Macon sóru,
kölluðu upp með kappi stóru:
kútnum skulum vér ná.
L. h. L. l. fr. h.
18. Austantil við allann hópinn
öldin æpti sigur-ópin,
þegar að litu gjarða glópinn
gladdist margur þá. L. h. L. l. fr. h.

19. Hann var bædi stór og sterkur,
stálsleginn sem trolla serkur,
hálfar geymdi 100 merkur,
horfdi eg þar á.
L. h. L. l. fr. h.

20. Þá vard margur lúinn í lendum,
léku þó í huga brendum,
ótal króka í kadalendum,
keirdu bordum frá.
L. h. L. l. fr. h.

21. Hann var þá sem fugl úr festum,
flýi undan ófrid mestum,
rásadi framar ránar hestum,
og rétti upp trektar krá.
L. h. L. l. fr. h.

22. Ýmsir bysßum ad hønum skutu,
svo úr honum bádir tappar hrutu,
sinn í hvørja sundrúng flutu,
sumir eltu þá.
L. h. L. l. fr. h.

23. Sett er þad fyrir sjónir lýda,
sannleikanum er best ad hlýda,
gjørdur úr silfri' og gulli vída,
glóadi stútinn á. L. h. L. l. fr. h.

24. Vaskur kaskur var ótiginn,
vildi eg aldrei reynast lýginn,
þá bólginn dólginn bar vid skýin
blótadi margur þá.
L. h. L. l. fr. h.

25. Vindur hvarf, en vedrid kyrdi,
vøllinn síldar ísinn byrgdi,
úti fyrir Eyríksfirdi
allur herinn lá.
L. h. L. l. fr. h.

26. Pad hef eg frétt med søgnum sønnum:
sű er bygdin þakin fønnum,
í Grænlandi hjá galdramønnum
geymist kúturinn sá.
L. h. L. l. fr. h.

27. Skipin dróu sig þá saman,
sigling høfdi lítinn framan,
þá var úti gledi' og gaman,
sem géta nærri má.
Legillinn hans Láka lagdi framhjá.

---

## Einbúa-Vísur,

eignaðar

Síra Benedict Jónssyni á Bjarnarnesi.

---

1. Kall ógiptur einn réð á
einverunni að klifa,
hann kvað það þúnga kvøl og þrá,
konulaus að lifa.
2. Hvað forsjónin hefir sett
híngað til að vinna
einn fyrir utan ekta stétt,
eg því hlýt að sinna.
3. Mig hefir engin falda-fit
né frúin viljað taka,
síðan eg fékk á svønnum vit,
sér til ektamaka.
4. Eg er því um apturkast
einsamall á fæti,
sockur og skór í sundur brast,
sjálfur einn eg bæti.
5. Sleppana einn eg vind,
einn eg skóna þveingi,

einn eg að mér brækur bind,
og buxur upp eg strengi.
6. Alla vorsins úti stund
er eg á velli' að berja,
súreygður í sama mund
sjá um hann og verja.
7. Einn til sauða ætíð fer,
einn tilhleypi og stía,
einn eg lømbin að mér ber,
einn eg tel og kvía.
8. Einn eg mína aska og trog
úti þvæ í tjørnum,
einn eg kindi á eldi log,
undir mjólkur hvørnum.
9. Einn eg síðan eldinn fel,
inn í búrið dratta,
einn eg set á síu þel,
síðan fer að skatta.
10. Allt sumarið út í gégn
einn eg þúfur kroppa,
helzt þá úti' er rosi og regn
reiti' eg græna toppa.
11. Einn eg baka einn eg bind,

einn eg geng med byrdi,
einn eg tyrfi' og tengsli vind,
tødur og einghey hyrdi.

12. Einn eg huxa' um eldivid,
einn eg ber í hripi,
einn á vøllinn reynum ryd,
róla eg einn á skipi.

13. Einn eg set það uppí naust,
enn þótt stærra væri,
einn eg ber heim ordalaust
øll mín veidarfæri.

14. Einn eg slátra einn eg sýd,
einn eg kjøt uppfesti,
einum mér þar uppá býd
allann lauk og þvesti.

15. Einn eg sit vid øskustall,
einn eg slógid kroppa,
eldinn tendra' eg einsamall,
einn eg fleyti' og kocka.

16. Einn eg sodid allt upplep,
ádurenn sný til gátta,
einn eg lýsnar af mér drep,
einn svo fer ad hátta.

17. Einn í blundinn eg þá hníg,

einn eg vakna og kveina,
einn í koppinn minn eg m..,
og mezt ei um við neina.

18. Aptur að sofna er mér kjært,
er þá hálfnuð gríma,
einum lítt mér verður vært,
vaki eg lángann tíma.

19. Einn eg róla út og inn,
einn á nótt og degi,
einn eg tíni, einn eg finn,
einn eg tala og þegi.

20. Einn eg tíni og aptur tek,
einn eg leysi og hnýti,
einn eg hósta, einn viðr..,
einn eg geispa og snýti.

21. Kýrnar bind á klafann eg,
klára fjós og brynni,
læt í meisa, mjólka, géf,
mæðdur af heysóttinni.

22. Einn eg sauma, einn eg sníð,
opt þó saumur fláí,
einn eg er svo ár og síð,
að öllu mínu stjáí.

23. Leidi' eg mína lund þar í,
lítt þó um mig vardi,
einn þó sé eg uppfrá því,
úti' í kyrkjugardi.

24. Láti þeir vel líka sér,
línspaung sem ad hljóta,
vandlifad þeim virdist mér,
vel sé þeim, sem njóta.

25. Þó eg gángi' einn til alls,
aldrei skal mig gipta.
Hér skal nidur kífid kalls
kljád til þagnar lykta.

# Rima af einni Bóndakonu.

1. Dvalins læt eg dælu-jór
dragast tals úr sandi,
vatnsdaufur þó bifurs bjór,
berist að heyrnar landi.
2. Góðkunningi bar mér blað,
bón sú þarmeð fylgdi,
þegar eg liti' og læsi það,
í ljóð uppsetja skyldi.
3. Skiladi fyrir merkann mann,
er mætar dygðir prýða,
sagði að heiti Þorvald þann,
þecktann góðn víða.
4. Mín er nærsta mentin stoð,
að midla sónar blandi,
fyrstu neita kléuri kvod,
kalla' eg ógjörandi.
5. Máltak gamalt mun eg því,
mér til dæmis kynna,
að geitakofa ei sé í,
ullu gott að finna.
6. Svo fer það, ef mætti mig,
maður nockur biðja,
fjalars staupi fyrir sig,
fram til gamans ryðja.

7\. Einn ef geingur á annann fast,
ótamt verk að géra,
mér þykir hann eigi' að ábyrgjast,
þó órdugt kynni' að vera.
8\. Það er til bóta þetta sinn,
Prests á bát ef damla,
hér raskast ecki ritníngin,
né reingist Credó gamla.
9\. Veit eg mér er valla hent,
að vanda ljóða ydju,
þetta svarar minni ment,
mærdar dikta' í smidju.
10\. Þann sem bað um bodnar-vel,
þá bøguna gjøri þylja,
bið eg hann að virða vel,
og vansemd kjærleik hylja.
11\. Af historíunni heyri' eg það,
heims um bygðar slotin,
vera mun, og víst er það,
víða pottur brotinn.
12\. Vareygð þyrfti' um veraldar tíð,
að vera hugfost manni,
alloptast því ár og síð,
alvara fylgir gamni.
13\. Þann sem vald og vitsku ber,
með voltum heims foginudi,
sér líkastur Satan er,
að svíkja hann frá Guði.
14\. Sjá má ríkann svo sem hinn,

í synd og gyrndum raungum,
opt er frómlynd fátæktin,
þó forsktud sé laungum.

15. Voldugur Drottinn veitir ráð,
vesælum frómum lýdum,
vélin snúist hafa í háð,
hjá hreckjamönnum tídum.

16. Ef menn vildu eptir sjá,
útaf spektar næmi,
í morgum sogum mundi fá,
mega þar til dæmi.

17. Vidlíkt efni eitt eg hef,
auds af fridri línu,
í froſtasneckjur fram á bréf,
fært ad gamni mínu.

18. Rósamunda merka tel,
mætti hún slíkum órum,
dygg í rádum dugdi vel,
dómurunum fjórum.

19. Í þeim kveiktist amors girnd,
auds til gnár í fyrstu,
svo vard frá þeim sæmdin spyrnd,
ad silfurgjaldid mistu.

20. Aldrei meir sitt bidu bard,
brjótar mundarfanna,
erindisleysa úr því vard,
og affjón peníngamá.

21. Illa byrjad optast nær,
Ut med setníng raungum,

illann líka orðstýr fær,
ílla bjargast laungum.
22. Mannsaungs glósa máls af frá,
mun að endíng hneigjast,
historíuna hlýðið á,
hún skal nú fram-segjast.

---

23. Bónda einum byrti' eg frá,
brúði átti fróma,
álits fríð var auðargná,
unntust þau með sóma.
24. Fátækur var brjótur brands,
bú þó halda mundi,
foldin søgð er fullu bands,
fegri hvørju sprundi,
25. Þar sem hún kisa alhvít er,
orðsháttt gamlann kénni,
skinnamakarinn skrifast hér,
skunda þángað nenni.
26. Svo hefir gengið opt og enn,
enga þó til nefni,
girnzt hafa laungum margir menn
motrar fagra géfni.
27. Í einum stað þar allskamt frá

einn var borgmeistari,
sem bóndi og þessi bauga-ná
búskaps hreifdu pari.

28. Brann í ástar girnd hinn gildi,
gautur ljósa hylja,
merkja lætur hadda hildi,
hann sinn fulla vilja.

29. Sama stadar kyrkju klerkur,
kom á tal vid hana,
ofur hægur og umgángs merkur,
eptir þeirra vana.

30. Inniliga brúdi bad,
ad bjarga sér nú vidur,
studdur vitsku stillti ad,
og steypti' ei mørgu nidur.

31. Fallig þókti faldabrík,
fýsn ei parid heftir,
þó hún sé ei af reitum rík,
rak hønum girndin eptir.

32. Býfógétinn bar upp slíkt,
bad sinn vilja hylli,
allir tøludu lágt, en líkt,
lítid bar á milli.

33. Nú voru þrír að tala til,
tvinna blíðrar gefni,
engu lofaði bauga=bil,
við bónda' er sagt hún nefni.

34. Mér er, téði hann, til og frá,
ef tignar fengi' eg klæði,
fyrst mig stríðir fátækt á,
félaus erum við bæði.

35. Vænti' eg ei sé vandalaust,
voldugum alls að sinja,
beiskist þeirra blíða raust,
brádt á hefndir dinja.

36. Því er mér hugur að þóknast heldur
þessu yfirvaldi,
enn í þeim kvikni illsku eldur,
svo ockur verði að gjaldi.

37. Veigs kvað niptin viturlig,
vafin snild og dáðum,
mun eg leysa mig og þig,
ef mínum hlýðir ráðum.

38. Breyttu ei af þeim býð eg þér,
bóndinn hlýddi og þagði,
annars skéður ockur hér,
ektabrot, hún sagði.

39. Fyrða láttu fá það spurt,
fold kvað elda rínar,
að reistur sértu í bæinn burt,
að borga skuldir þínar.
40. Í leyndum heima ligg þú hér,
í laumi kyrr þar eyrir,
enn ei leingra í frá mér,
enn orð mín gjørvøll heyrir.
41. Þá seggir koma í sæng hjá drós,
seyrðir amors línu,
þú sér ei inni loga ljós,
lengur í húsi mínu.
42. Verja skaltu á bustarhjört,
og bið mig upp að ljúka,
orð þín séu ei blíð né bjørt,
blótaðu' og nefndu púka.
43. Kannské vinna klæði þér,
kunni eg með þeim ráðum,
en ektaskapar æran hér,
ockur haldist báðum.
44. Síðan reisti bóndinn burt,
í bæinn uppá veginn;
borgmeistarinn það brádt féck spurt,
og brá við hjartans feginn.

45. Fann og heilsar falda-gná,
fagurt bad og lagdi,
haukastéttir herdar á,
hún, já, døpur sagdi.
46. Kjættist af því komid var húm,
kveikt var ljós í ranni.
fúr hann upp til fljóds í rúm,
føtin geymdi svanni.
47. Pegar hann hugdi ad krjúpa' á kné,
kvøldbæn máské þylja,
sløckti hún ljós, sem sagt er sé,
samt ad beggja vilja.
48. Hardt var barid høgg á dyr,
svo heyrdi víf og géstur,
vildi hann þá ei vera kyr,
því vinnutímann brestur.
49. Bísna reidur bóndinn var,
blóti gjørdi slíka,
strøndin gulls ei stód vid par,
strauk hún ofan líka.
50. Upplauk dyrum audarlaug,
ei vard fyrirstadan,
á bak vid þau í burtu smaug,
borgmeistarinn þadan.

51. Komst hann svo á flótta-før,
fyrr enn leikid hafdi,
ómak fái ein sú spjør,
utaná hønum lafdi.

52. Hefdi' í dyrum logad ljós,
og lýst verid eptir hønum,
mundi þá hans mesta hrós,
mínkad hafa ad vonum.

53. Fljódid geymdi føtin øll,
féll ad hennar rádum,
bóndi leggst og bauga-þøll,
bædi' í sæng med nádum.

54. Kvøldid annad kémur þar,
klerkur ad hitta svanna,
kínkadi kolli' og klókur var,
kvad sér mundi' ei banna.

55. Kyrkjumadur kvendi hjá
kunni blídt ad láta,
en því tekur audar-gná,
øllu' í snidinn máta.

56. Lét svo þar til lykta skraf,
lágt vid þøllu seima,
føtum øllum fór hann af,
og féck henni þau ad geyma.

57. Hann er kominn í hjónasæng,
hún nam ljósið slöckva,
barið var högg á húsins væng,
hardt með blótið döckva.
58. Lézt stórreiður bauga-bör,
bað hana upp að ljúka,
annað þorði ei auðarvör,
enn til dyra að strjúka.
59. Í laumi prestinn varar víf,
svo voða forðast kynni,
eg hygg að bóndinn hafi þitt líf,
ef hittir hann þig hér inni.
60. Líneik tekur lokur frá,
en lundur oturs gjalda,
hleypur inn, sem hraðast má,
í hús til eyu spjalda.
61. Hræddur prestur hokinn stóð,
hafði ei náð til fata,
leizt hönum sízt fyrir líf né blóð,
líðug mundi gata.
62. Var því harðast böl og sút,
í brjósti um tilstand nauða,
hleypur til og arkar út,
uppá líf og dauða.

63. Prestur í því flatur fèll,
þá framhjá gjørdi keyra,
grunadi bónda, og gaf hønum skèll,
hann gat ei náð til meira.

64. Með svoddan móti sagði happ,
sér heim flýta lysti,
þackaði lucku það hann slapp,
þó að føtin missti.

65. Á leiðinni hvað lafði fraus,
lucka var það toldi,
líka sveið í lambann daus,
svo leingi ei sitja þoldi.

66. Þriðja kvøldið þegar í stað,
þángað mærð vill sveima,
býfógétann bar þar að,
en bóndinn sást ei heima.

67. Talar hann við tvinnabrú,
tók að hressa géðið,
heilla lífið lofa mér nú,
sem leingi hefi' eg þig beðið.

68. Føl lézt ecki faldagná,
fagurt þó hann léti,
svo kom loks um síðir þá,
sagt er hún góðu héti.

69. Feginn kastar fötum hann,
flýtir sér að hátta,
lék alsolliun, vona vann,
veigsól muni þar nátta.

70. Líneik slökkti ljósið þar,
lézt sig viljug géfa,
bustar-hjörts á bríngu var
barið högg með hnefa.

71. Hræðslu stóra hríngþöll bar,
hvrar aðferð slíka,
bál forreiður bóndinn var,
og blótaði nockuð líka.

72. Til dyranna gengur drégla ná,
dygg frá lokum ýtir,
bóndinn inní bæinn þá,
brá sér strax með flýtir.

73. Af gésti rennur gleðin þá,
gafst ei tóm að klæðast,
bakatil við bauga ná,
bar sig út að læðast.

74. Hræddum tókst það geira grér,
að géta laumast þaðan,
en sú kvöl í brjósti ber,
bætti ei fata skaðann.

75. Í nætur myrkri og nógri eymd,
nú varð heim að róla,
en fötin voru hjá fljóði geymd,
frá eg það harðann skóla.

76. Ymist gékk hann eða skreið,
óttaðist vöku-kauða,
krókna-ður nærri' í kulda' og neyð,
kominn í sjálfann dauða.

77. Sárt er að vefja synda=hnút,
sjá má hér þess merkin,
svona gánga sumum út
saurug myrkra=verkin.

78. Klæðin góðu falið fékk,
foldin orma dýnu,
fyrir ofan kistu, undir bekk,
og ein í rúmi sínu.

79. Fékk nú bónda falda norn,
föt með kjærleik blíðan,
batt hann þau í bagga=korn,
og bar til kyrkju síðan.

80. Lýsti hann enga launúng á,
leggja, sagðist vilja,
hvörir ættu, hann bað þá,
hérum sig ei dylja.

81. Klædin sagdist hafa hann,
í húsi fundid sínu,
en enganu séd þar eignar=mann,
inni ad gózi sínu.
82. Borgmeistarann bidja fer,
brjótur orma skara,
med haglig rád ad hjálpa sér,
hvørnig med skal fara.
83. Rínar=elda=rjódur tér,
raunin brjóst vill spenna,
engin kénsl eg á þau ber,
en eitt vil eg þér kénna.
84. Skrafa vid prestinn skjóma=grér,
skrýddann messu kjólnum,
bid hann ad lýsa, best þad er,
bagganum uppá stólnum.
85. Flest þá verdur fólkid vid,
fyrr enn sermon bresti;
þackar bóndi lítid lid,
og leggur nú ad presti.
86. Í húsi mínu hríngs hjá norn,
hitti' eg klædnad frídann,
batt eg hann í bagga=korn,
og bar hann híngad sídan.

87. Kém eg með hann kyrkju til,
svo kunni hann fram að vísa,
uppá stólnum óska vil,
að honum gjörið lýsa.

88. Í ljós þá kann að leiða sig,
lausa einhvör rjóður;
farið þér að því, fyrir mig,
fallega! prestur góður!

89. Bóklesarinn bisti sig,
bað hann reglu gjætti,
það kémur varla viður mig,
í vegligu prests embætti.

90. Frekur í ræðu framar tér:
falt ei þetta lét hann,
farðu strax og flýttu þér,
findu býfógétann!

91. Af honum fleirum orðum náð,
ei gat hann með sanni,
kreikar nú fyrir klerksins ráð,
og kémur að ríkis=manni.

92. Berið þér kénsl á bagga vorn,
bóndinn tér í lagi?
það eru falleg fata=korn,
fín, af skárra tagi.

93. Seudir- ríkur -seima brátt,
svar á móti géfur:
fata njóta eins þú átt,
og ablad þeirra hefur.
94. Vildi heldur vera frí,
veitir kólgu bríma,
enn koma þessi klædin í,
kannské nockurntíma.
95. Býfógétans bodum þeim,
bóndinn vel nam svara;
á bagga sínum heldur heim,
og hagliga þókti fara.
96. Naut svo þeirra nádum í,
og niptin fræníngs leira;
historían af hyski því,
hermir ecki meira.
97. Um klókskapinn og kænsku-par,
Cató fordum sagdi:
kvad þad vel, þó kjæmi þar,
krókur á móti bragdi.
98. Svo fór hér í søgdum leik,
seggja og vífs á milli,
viturliga vella eik,
vann þá medur snilli.

99. Hélt svo æru og hjóna-trygd,
heidarliga med sóma,
en gabbid lidu um breida bygd,
brjótar jøtna-dóma.

100. Ecki skal mig undra neitt,
þó auma bresti varnir,
þá svo fá rádi sínu breytt,
sjálfir høfdíngjarnir.

101. Þad eg víst til þacka finn,
þeim, sem skapadi' alla,
ad ærlig stendur einfeldnin,
en opt stórvitrir falla.

102. Herrans nád oss verndar vel
vesælínga sína,
Satans heims og holdsins vél,
hann kann láta dvína.

103. Sé þeim øllum sigurinn vís,
seljum auds og þegnum,
svo hólpnir komist heim med prís,
hørmúngar í gégnum.

104. Óskar sá, sem erindin kvad,
igg fyrir móins grunda,
Þorvaldi, sem þar um bad,
þægra luckustunda.

105. Biður hann að virða vel,
og vinsamliga mælir,
einlægur um þánka-þel,
þénustubúinn, sælir!

---

Nockrar

# Äsópiskar Dæmisögur,

orktar af

P. J. Vídalín, Sýslumanni í Dala-Sýslu.

---

## 1.

### Um Hanann, sem fann gimsteininn.

Haninn rótar haugi í,
og hittir perlu í sorpi því:
byggkorn, segir hann, betra' er mér,
enn birtan sú, sem stendur af þér.
Heimskum luckan hnossið opt í hendur ber.

## 2.

### Um Hundinn og kjøtstyckið.

Hundurinn krás í kjapti ber,
kominn að á sinn skugga sér;
þann hyggst ræna, og þrífa' á lopt,
þaut burt kjøt, en glenti hann hvopt.
Pá hugurinn mikið, høndin lítið hefir opt.

3.

Um Asnann og Hvolpinn.

Húsbóndinn vid hvelp sér lék,
hønum klappar og lídur brek;
þad sér asni og í hans kné,
uppstøckur, en — slæst med tré.
Eigi er virdt fyrir øllum eins, þó eitt verk sé.

4.

Krákan med lánsfjødrum.

Af fuglum ødrum krákan kjæn,
í kyrtil sinn hlaut fidur med bæn;
en þegar dramblát sómdi sér,
sína burttók fjødur hver.
Valt er lánsfé, krákan kvad, því kvída ber.

5.

Um Apann og Refinn.

Ref bad apinn, aptan ber,
einn lid géfa af rófu sér.
Þó yrdi' eg ad flytja'na færleik á,
forid tér, þú skyldir ei fá.
Agjarn vill vid aumíngjann af engu sjá.

6.

Um Ljonið og Refinn.

Sjúku ljóni tóa tér,
sem teygja vildi' hana inn að sér:
eg hræðist spor, þau horfa inn,
en héðan engin liggja finn.
Margt er að varast, vertu gætinn, vinur minn!

7.

Um Trönuna og Ulfinn.

Trana' um kaup sitt taladi ein,
sem togaði' úr kverkum úlfsins bein:
bjóstu, sagði hann, betra við?
beit eg ei af þér höfuðið!
Hjálparmann að hafa tel eg hrekkja-sið.

8.

Um Læknirinn og hann dauða.

Læknirinn í líkför manns,
lýsir því fyrir vinum hans:
við vín ef hefði' hann ei lagt sitt lag,
lifa mundi hann enn í dag.
Ofvinnum koma eptirráðin illa' í hag.

### 9.

#### Um Húsfreyu og Gridkonur.

Húsmódir, nær haninn gól,
hrakti upp þernur fyrir sól;
þær drápu hann, en héreptir
hálfu fyrr hún vekja fer.
Margt fer stundum ødruvísi enn ætlad er.

### 10.

#### Um Magann og Limina.

Limirnir segja: letjumst vér,
latur magi! ad þjóna þér;
þegar neita þørfum hans,
þverrudu burdir líkamans.
Ósamþyckid audnuleysi ollir manns.

### 11.

#### Um Apinjurnar.

Apinjurnar dansa dátt,
dúdadar upp med silkid smátt;
þær neita skarti og synja seim,
nær sýnd voru føgur epli þeim.
Þó náttúran sé lamin med lurk, hún leitar heim.

## 12.

### Um Vaxið.

Tígulsteinsins hátt upphaf,
og hörku fengna eldi af,
øfundar var og fer á flack
fram að glóð, og rann sem lack.
Vittu að sníða vexti eptir vænann stack.

## 13.

### Sér sjálfum næstur.

Sætan átti sjúkann mann,
sér kaus dauða' ef lifði hann.
Þegar hel sér þreingdi inn,
þarna' er, segir hún, maðurinn.
Hvør finnst næstur sjálfum sér, nær sorg
er stinn.

## 14.

### Um Asnann, sem rasaði.

Lúinn asni løtraði' um hlað,
sem leingi hafði og vel þjónað;
hann rasaði' um stein, en sá á sat,
með svipum keyrði hann fast sem gat.

Svo launar margur sopna mjólk og svelgdann mat.

15.

Um músina og hrafninn.

Kjæra mýsla! krummi tér,
kroppadu snøru af fœti mer.
Lidsemd músin lét í té,
losnadur henni slátradi.
Aldrei gott er oflaunad, nema illu sé.

16.

Um Refinn og Krókódílinn.

Kappskraf høfdu' um kynþátt sinn
krókódíll og refurinn.
Ei þarf ordin, tóa tér,
teiknin gjørvøll skinnid ber.
Af munni laungum merkjast kann, hvør madur er.

17.

Um Eikina og Sleïgana.

Greinir trjánna garpurinn hjó,
og gilda fleiga sér tilbjó;

stundi eik, er átti føl
af eigin kvistum reyna kvøl.
Sárt er ad lída af sér nákomnum sorg
og bøl.

18.

Um Asnann, sem þrír áttu.

Brædur erfdu asna þrír,
allir brúka vinnudýr;
þeir møttust um ad metta hann,
í megurd af því deya vann.
Ur dáliga snittu dreirinn nefi detta kann.

19.

Um Mýsnar og Køttinn.

Mýs samtóku svoddan ráð,
ad sauma bjøllu á køttinn med þráð;
þá hvør adra' um þetta bad,
þordi einginn kisu ad.
Hægra' er ad kénna heilrædid, enn halda þad.

20.

Um Hrafninn og Ulfinn.

Hrafn af Ulfi heimtir krás,

því hønum ætíð fylgdi' á rás;
áztu bráð, en ei gafst mér,
úlfur talar, þá svo við ber.
Gættu að af hvørju gèði gjørt sé þèr.

## 21.

### Um Gjæsir og Trønur.

Gjæsir og trønur eru með á,
einginn veiðimanninn sá;
þúngar gjæsir fángast frí,
flugu margar trønur um bý.
Létt er þeim, sem laus flackar, það lærðu'
af því.

## 22.

### Um Gamminn og Fuglana.

Gammurinn fuglum gjørði í hag,
gèstaboð á fæðíngar dag;
ølvaða þar alla hann
óvart drap í læstum rann.
Í vellystíngunum voði' er nær enn varir
mann.

### 23.

Um Hænuna, sem átti Gulleggid.

Húskarl átti hænu þá,
sem hvørn dag fagurt gullegg á;
krufdi' og ætlar innra þar
sé undra gull, en fann ei par.
Fíknin spillir feingnum hlut, sem fyrir var.

### 24.

Um Fjöllin jódsjúku.

Furdadi sig firda drótt,
fjøllin tóku létta sótt;
felmtrar líka fólkid þreytt,
fæddist músargrenid eitt.
Hlýzt opt smátt af haggi því, sem hátt er reikt.

### 25.

Um Podduna.

Paddan upp sér allri skaut,
ætladi ad verda stór sem naut.
Þó þú springir, módir! med,
mælti son, þad getur ei skéd.
Heimskra manna hátt úr máta huxar géd.

## 26.

### Prætan um Asnann.

Asnann fundu ítar tveir
eignast vildu hann bádir þeir;
en sem þrátta um þennann plóg,
þrammadi asni útá skóg.
Missast kunna kjørgripir fyrir kíf og róg.

## 27.

### Um Asnann sjúka.

Fregn var ad asninn félli í sótt,
fóru hundar ad vitja'ns skjótt;
følur sagdi fljótt vid þá:
færari er eg enn vildud sjá.
Sum vinátta' er svikum næst, þad sést hérá.

## 28.

### Um Krabbann.

Krabbinn segir son sinn vid:
sífeldt geingur þú útá hlid.
Ef þín spor væru áfram sett,
ansar hinn, þá geingi eg rétt.
Hvør adra sídar, sjálfur ræki sína stétt.

## 29.

### Um Karlinn og Daudann.

Karl ørmæddur byrdi ber,
og bad grátandi dauda sér;
kom þar daudi, en karl vidbrá,
og keyrdi uppá sig bagga þá.
Dýrt er líf, og fagurt er fjør, þá farast á.

## 30.

### Um Mýsnar og Køttinn.

Kotturinn vært í kyrdum lá,
komu mýslur þetta' ad sjá;
ein fer ad kyssa kisu í stad,
kockud var hún strax í spad.
Opt er flagd í føgru skinni, fordastu þad.

# Innihald Bæklingsins:

Pag.

1. Tíma = ríma . . . . . . . . . . . . . 3.
2. Skipa = fregn . . . . . . . . . . . . 39.
3. Hrakfalla = bálkur. . . . . . . . . . . 53.
4. Láka = kvædi . . . . . . . . . . . . 66.
5. Einbúa = vísur . . . . . . . . . . . 72.
6. Bóndakonu = ríma . . . . . . . . . . 77.
7. Æsópiskar Dæmisøgur . . . . . . . . 95.

Þýðingin frá 7. erindi er saman-
borin við Blöndals bók

